Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

41. tölublað | Þriðjudagurinn 31. október 1978 | 7. árgangur | verð kr. 100.-



# Að nota verkalýðinn

Nokkur launþegafélög hafa sagt upp samningum sínum. Þau eru til dæmis verslunarmannafélög, sjómannafélög, og félag háskólamenntaðra manna.

Að vísu telst það ekki undarlegt þar sem kjaraskerðingin hefur haldið áfram og mál er komið að verkalýðshreyfingin spyrni við fótum. En það er tvennt sem vekur sérstaka athygli. Í fyrsta lagi það að forystumenn þessara félaga voru yfirleitt andsnúnir öllum aðgerðum í tíð fyrri ríkisstjórnar. Í öðru lagi að þeir sem yfirleitt voru tilbúnir til aðgerða í tíð fyrrv. stjórnar vilja nú ekkert gera.

Ástæðan er einfaldlega sú að borgaralegu flokkarnir flestir hafa komið sér upp valdaaðstöðu innan forystu launþegafélaganna. Þeir nota síðan þessi félög, og þar með brýnustu hagsmuni launþeganna, til að bítast á um það hver eigi að komast að kjötkötlum ríkisstjórnarinnar.



Miðstjórn ASÍ á fundi.

Jónas Bjarnason er formaður BHM. Hann er líka ákafur stuðningsmaður íhaldsins. Hann var eindregið á móti "ólöglegum aðgerðum" í mars sl. Hann er núna eindregið fylgjandi "ólöglegum aðgerðum" og hvetur til þeirra.

Gvendur jaki og Haraldur Steinþórsson voru í mars sl. eindregnir stuðningsmenn "ólöglegra aðgerða". Nú hafna þeir meira að segja löglegum aðgerðum. Þeir eru sem kunnugt er báðir í miðstjórn Alþýðubandalagsins.

Þetta eru menn sem hafa sagt skilið við hagsmuni umbjóðenda sinna. Þeir hafa svikið málstað launþeganna og þjóna eingöngu hagsmunum flokka sinna. Þeir eru nátengdir velgengni flokka sinna í auðvaldsþjóðfélaginu.

Verkafólk og aðrir launþegar eiga ekki margra kosta völ. Það er brýn nauðsyn að losna við forystumenn á borð við þessa. Í stað þeirra verður að velja baráttufúsa og trausta verkamenn í stjórnir félaganna.

Kommúnistaflokkurinn styður aðgerðir félaganna en hvetur jafnframt launþega til að beina spjótum sínum ekki síður gegn svikurunum í eigin herbúðum.

Árangur kjarabaráttunnar verður enginn meðan henni er stjórnað með tilskipunum frá miðstjórnarfundum borgaralegu flokkanna.

# Smjörlíkis og kókstríðið

Sem kunnugt er hafnaði ríkisstjórnin ákvörðun verðlagsnefndar um 25% hækkun á gosdrykkjum og smjörlíki. Taldi hún mun minni hækkun nægja. Viðbrögð kapítalistanna, með Davíð Sch. í fararbroddi, voru þau að loka fyrirtækjunum. Þannig knúðu þeir ríkisstjórnina til að endurskoða ákvörðun sína sem hún gerði og veitti leyfi til 25% hækkunar.

Ríkisstjórnin leyfði hækkanirnar vegna þess að "atvinnurekendur vildu ekki komast að samkomulagi og til að koma í veg fyrir stöðvun fyrirtækjanna og atvinnuleysi."

Ríkisstjórnin ætlaði "að semja" við atvinnurekendur um að fá að skerða gróða þeirra rétt eins og hún hefur "samið" við flokksbræður sína í forystu verkalýðsfélaganna um kauplækkanir launþeganna. En þetta er einfaldlega ekki mögulegt. Það veit ríkisstjórnin vel en sýndarmennskan er nauðsynleg til að halda atkvæðum.

Þetta "stríð" er aðeins eitt lítið dæmi um skipbrot alþýðubandalagspólitíkurinnar um friðsamlega leið til sósíalisma. Sú leið er ófær. Enda er hún eingöngu kenning til að rökstyðja aðild AB að ríkisstjórn.

Það má spurja af hverju ríkisstjórnin hótaði ekki að þjóðnýta verksmiðjurnar. Það hefði verið meira í samræmi

Framhald á síðu 2.






Begin

# „Friðarverðlaun"

Einn einu sinni hefur hinum frægu friðarverðlaunum Nobels verið úthlutað. Og engum á óvart voru það enn einu sinni tveir fulltrúar stríðsyfirgangs og kúgunarstefnu sem hlutu þessi eftirsottu verðlaun. Verðlaunaafhending þessi er nú orðið árlegt hneigsli og úthlutunarnefndin verður jafn oft að athlægi frammi fyrir öllum hugsandi mönnum sem þessa jarðkringlu byggja. Það er orðið augljóst að stefnan sem nefndin hefur tekið í vali sínu á bestu fulltrúum "friðar" í heiminum. Við meigum því fastlega búast við því að á næstu árum verði það menn á borð við Ian Smith, Jhon Vorster, Pinochet Idi Amin o,s frv. sem verða kallaðir til þess "göfuga" hlutverks að þiggja "Friðarverðlaun" Nobels Það er að minnsta kosti eitt sem öllum óvitlausum mönnum hlýtur að vera ljóst, og það er að enginn sannur friðarsinni mun í framtíðinni vilja saurga nafn sitt með því að þiggja þessi ófriðar laun.

Það þotti víst flestum nóg hér um árið þegar Henry Kissinger sá frægi stríðsæsingarmaður hlaut "friðarverðlaun" Nobels ásamt Norður-Vietnamanum sem hafði forystu fyrir samningarviðræðunefnd Norður-Vietnama í Parísarviðræðunum. Ekki kom heldur vietnamanum í hug eitt einasta augnablik að taka við friðarverðlaununum. Með því hefði hann verið að viðurkenna íhlutunarrétt bandaríkjanna í Víetnam. Begin forsætisráðherra Ísraels er heimsþekktur sem miskunnarlaus foringi hryðjuverkahóps sem fór með morð og gripdeildir á hendur óvopnaðri álþýðu Palestínu. Hann er frægur fyrir þá kenningu að eina leiðin til að losna við palestínumenn út úr Palestínu væri að fremja fjöldamorð á nokkrum bæjum og brenna þá til kaldra kola til að hræða aðra sem um þetta

Framhald á síðu 2.

LEIÐARI

# Afrek "vinstri" stjórnar

Það má segja að ríkisstjórnin hafi sýnt á sér margar hliðar þá fáu mánuði sem hún hefur setið. Stjórnin fór af stað með fögur fyrirheit og loforð um að sjónarmið launþega myndu stjórna gerðum hennar. Einhvern veginn hafa efndirnar orðið minni en loforðin og það í hverju málinu á fætur öðru og nú undanfarið er engu líkara en það séu atvinnurekendur sem ríkisstjórnin ber fyrir brjósti.

Allt byrjaði þetta með hótunum frystihúsaeigenda um að loka fengju þeir ekki meira í sinn hlut. Ríkisstjórn "launafólks" ræddi málin fram og aftur og komst að þeirri niðurstöðu að frystihúsaeigendum bæri meiri gróði. Það bæri að verðlauna þá menn sem með framtaki sínu héldu uppi atvinnu í sjávarútvegi. Niðurstaðan varð meiri gróði til kapítalistanna á kostnað launþega til að bjarga þeim frá atvinnuleysi, eins og það er kallað af verkalýðsflokkunum. Þeir sem töluðu svo hátt fyrir kosningar um að þjóðnýta þau fyrirtæki sem hótuðu að hætta rekstri þögðu nú eins og þúsund málleysingjahæli.

Alþýðubandalagsfrúrnar ofan af Akranesi, sem sömdu ályktun þess efnis að þær tækju að sér rekstur frystihússins á staðnum ef eigendurnir ætluðu að loka þeim, litu nú í aðra átt meðan ríkisstjórn þeirra jók gróða auðherranna.

Nú undanfarið hafa nokkrir hópar kennara átt í útistöðum við ríkið til að fá leiðréttingu sinna mála, sem þeir höfðu raunar fengið loforð um í síðustu samningnum og höfðu treyst ríkisstjórninni til að sjá svo um að næði fram að ganga. Nú mörgum mánuðum síðar sýnir ríkisstjórn launafólks engan lit í að standa við gerða samninga við kennara og kannast ekkert við nokkurra mánaða gömul loforð um leiðréttingu á hinni óréttlátu tekjuskiptingu sem viðgengist hefur milli hinna ýmsu kennara á ýmsum skólastigum.

Á sama tíma og þessi tíðindi gerast stendur yfir svokallað smjörlíkis- og gosdrykkjastríð. Nú sýnir ríkisstjórnin á sér sömu hlið og við frystihúsaeigendur. Eftir smávægilegt sýndarkarp er gengið að öllum kröfum atvinnurekenda. Það eru engar smáhækkanir eða smáleiðréttingar sem eru "knúðar" fram, síður en svo. Vöruverðið er hækkað um einn fjórða á einu bretti. Svo að segja án umhugsunar gengur ríkisstjórnin að þessum fáránlegu kröfum og uppfyllir allar óskir atvinnurekenda upp í topp.

Engin mótmæli heyrast, hvorki frá verkalýðshreyfingunni né húsmæðrum í vesturbænum. Það er engu líkara en að ríkisstjórnin hafi hitt á rétta leið til að gera alla ánægða.

En er það svo? Er það ekki heldur hitt sem fulltrúar Kommúnistaflokks Íslands bentu á fyrir kosningar að ef "vinstri" flokkarnir færu í ríkisstjórn þá yrði það versta stjórn verkafólk kynntist.

Allar líkur benda til þess að þetta muni rætast og væri óskandi að verkafólk dragi af því réttar ályktanir. Stéttarsvik hinna svokölluðu verkalýðsflokka koma aldrei betur í ljós en þegar þeir eru í stjórn. Þá sér fólk best hverjum þeir helst vilja þjóna. Þetta eru ekki flokkar launafólks. Það hefur þegar komið í ljós eins og dæmin hér að framan sanna. En það á eftir að koma enn betur í ljós síðar. Verkafólk getur einskis vænst af þessari ríkisstjórn. Það er borin von að verkafólki hafi orðið eitthvað meira ágengt við stofnun hennar eftir hægri stjórn.

Framhald af forsíðu

# „Friðarverðlaun"

heirðu á flótta yfir landamærin til annarra landa. Og hann er líka frægur fyrir að hafa framkvæmt þessar kenningar sínar. Begin er einhver ógeðslegasti morðhundur sem heimurinn hefur alið og gefur þar ekkert eftir Hitler og öðrum ámóta "friðarsinnum".

Og fyrir hvað er það svo sem Sadat og Begin fá þessi margrómuðu "friðarverðlaun" Jú það er fyrir hið dæmalausa Camp David samkomulag þar sem þeir semja sín á milli um fram tíð palestínsku þjóðarinnar. Camp David samkomulagið er samningur um það að síonistar geti áfram haldið kúgun sinni og yfirgangi gagnvart palestínumönnum. Það er reyndar alls ekki séð fyrir endann á þessu samkomulagi og að minnsta kosti helmingslíkur á að áframhaldandi viðræður eigi eftir að sigla í strand.



Myndin sýnir vel gang mála í Miðausturlöndum.

Framhald af forsíðu

# Smjörlíkis og kókstríðið

við stefnu AB. Þá hefði væntanlega hvorugt gerst, verðið hækkað eða komið til atvinnuleysis.

Sannleikurinn er hinsvegar sá að þessi ríkisstjórn hefur ekki hugsað sér að hreyfa við hagsmunum atvinnurekenda. Í öllu hennar starfi koma hagsmunir atvinnurekenda í fyrsta sæti og hagsmunir verkafólks víkja.

Þetta er ríkisstjórn atvinnurekenda eins og sú fyrri.

## Fulltrúar launþega í verðlagsnefnd.

Kostulegasti kafli þessarar heljarslóðarorustu er hlutur fulltrúa ASÍ í verðlagsnefnd. Þeir hafa greinilega ruglast í ríminu. Þeir krefjast hækkunarinnar af engu minna offorsi en atvinnurekendur og hótuðu jafnvel að segja sig úr nefndinni ef ekki yrði gengið að kröfum þeirra um verðhækkanir.

Hvað veldur gerðum þessara manna? Hvað veldur því að þeir taka afstöðu með atvinnurekendum gegn verkafólki?

Jú, þeir taka "ábyrga afstöðu til atvinnuveganna og hækkanirnar koma fram í næstu vísitölu". Þetta eru töfraorð skýringar.

Þeir sem trúa því að fyrirtækin séu í raun og veru að fara á hausinn og þeir sem trúa því að eitthvað sé að marka vísitöluna geta kannski tekið þetta gott og gilt.

Íslensk fyrirtæki eru vissulega ekki að verða gjaldþrota. Atvinnurekendur vilja hinsvegar alltaf auka gróða sinn á kostnað verkafólks.

Eina leiðin til að koma í veg fyrir lokun fyrirtækja sem atvinnurekendur segja vera að verða gjaldþrota er að ríkið eða starfsfólk viðkomandi fyrirtækis taki við rekstrinum. Atvinnurekendur ættu að samþykkja það frekar en að verða gjaldþrota. Slíkt er leyfilegt skv. stjórnarskránni. Að vísu skal koma gjald fyrir en hvað kostar gjaldþrota fyrirtæki?

Sannleikurinn er hinsvegar sá að verkalýðsforystan er of háð auðherrunum til að geta gert slíka hluti. Hún er bæði fjárhagslega og pólitískt háð þeim. Þessvegna gerir hún ekkert sem skerðir völd og gróða atvinnurekenda. Með allra handa bitlingum og nefndarstörfum eru þeir múlbundnir við hagsmuni auðherranna.

Og verkafólk á bara að horfa á og fá laun skv. margfalsaðri vísitölu sem ekkert er að marka.



## ÚR BARÁTTUNNI

### SJÓMANNAFRÍ

Margt er óréttlætið á Íslandi og eitt skal hér nefnt. Fragtari nokkur kom til hafnar um hádegisbil eftir ferð til Portúgal og lagði strax á miðnætti aftur á stað til Bandaríkjanna, Mikil er hvíldin sem sjómönnum á flutningaskipum er ætluð Togarasjómenn hafa ákvæði um lágmarkshvíldartíma í sínum samningum og þetta ákvæði þarf einnig að fá inn í samninga sjómanna á kaupskipum. Þetta er aðeins lítið dæmi um óréttlætið í þessu þjóðfélagi og hér er það notað til að sundra sjómannastéttinni. Í málum sem þessum verður stéttin öll að standa saman; hagsmunir eins hluta hennar eru hagsmunir hinna.

## Af fjölmiðlum

### ERTU MANNESKJA?

Verið er að lesa í útvarpinu miðdegissögu sem heitir "Ertu manneskja?" eftir sænska rithöfundinn Marit Paulsen. Á útvarpið þakkir skildar fyrir að flytja sögu þessa. Hún fjallar um baráttu verkakonu við lífið og tilveruna. Hún lýsir hugarástandi verkakonu í auðvaldsþjóðfélagi konu sem verður að fara frá börnunum hvenær sem er sólarhringsins til að vinna í verksmiðju til að raungera gróða atvinnurekandans. Hún vinnur í verksmiðju þar sem unnið er eftir bónuskerfi, bónuskerfi sem krefst þess að þú vinnir eins og þræll. Sagan lýsir m.a. þeirri sundrungu sem skapast í verksmiðjunni vegna bónuskerfisins. Sumir eru hærra settir vegna þess að þeir hafa selt sál sína fyrir nokkrar krónur, eru kallað "hálfapar". Þú vinnur við vél sem má ekki stöðvast. Fyrir stuttu var ástandið þannig að þið gátuð unnið í skorpum og tekið ykkur sæmilegt matarhlé, þið borðuðuð í lítilli kompu, en voruð öll samankomin. Þið gátuð rætt saman. En nú er komin ný og fullkomin kaffistofa með ísskáp og öllu tilheyrandi, en nýju reglurnar segja að það verið að taka ykkur matarhlé í smáhópum, vélarnar mega ekki stöðvast, því það er glæpur. Þið megið ekki talast saman því það gæti verið hættulegt. Hættulegt? Jú, vegna þess að þá farið þið að ræða saman um hagi ykkar og kjör og þið gætuð komist að þeirri niðurstöðu að ástandið gæti verið betra.

Þú færð nýja stúlku með þér á vélina. Hún er finnsk og skilur ekki sænsku, þú kvartar við "hálfapana", bónusinn minnkar. Sú finnska er í bráðri lífshættu. Hún skilur ekki sænsku leiðbeiningareglurnar, hún skilur það ekki sem þú ert að segja. Þú kvartar enn, en verkstjórarnir segja þér að halda kjafti og vinna, annars verður þú rekin og að vera rekin er það sama og kippa lífsafkomunni undan börnunum. Þú heldur kjafti.

Saga þessi á erindi til allra, hún lýsir afkomu verkakvenna í "nútíma" þjóðfélagi, auðvaldsþjóðfélagi. Þetta gæti alveg eins skeð í frystihúsi hér á Íslandi.


**HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnarsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Frelsun Tíbetskrar alþýðu tjáð í söng og dansi

**Dufþakur**

Hér á landi er nú staddur dans- og söngvaflokkur frá Tíbet. Hann hélt sýningar í Þjóðleikhúsinu 24. og 25. okt. og fór síðan út á land þar sem hann skemmti áhorfendum á Akranesi og Selfossi. Hópurinn, sem verið hefur á sýningarferðalagi um Norðurlöndin kom hingað á vegum Kínversk-íslenska menningarfélagsins, en það heldur nú upp á 25 ára afmæli sitt. Er þetta liður í því að auka vináttu- og menningartengsl kínversku þjóðarinnar og íbúa Norðurlandanna.

Tíbetska dans- og söngvaflokknum var ákaft og innilega fagnað, er hann lék listir sínar fyrir áhorfendur í Þjóðleikhúsinu. Dagskráin skiptist í þrjá hluta: dansa, einleik á hin ýmsu hljóðfæri og söng, ýmist einsöng eða dúett. Sérstaka athygli vakti flutningur listamannanna á gamalkunnum íslenskum þjóðlögum og var hreint ótrúlegt hve söngvurunum hefur tekist vel að læra íslensku textana utanbókar.

Það er næstum ógerningur að benda á einhver sérstök atriði dagskrárinnar, sem manni fannst meira hugleikin en önnur, en það sem vakti kannski hvað mesta athygli var, hve danshópurinn er einkar samstilltur, þrátt fyrir mikla fjölbreytni í dönsunum. Þá ber og að geta mikillar og glæsilegrar litadýrðar, hvað varðar búninga listafólksins.

Megintemað í sýningu hópsins var hamingjusamt líf og starf alþýðunnar í Tíbet við uppbygginguu sósíalismans, er hún hafði losað sig við ánauð og þrældóm fyrrverandi yfirstéttar. Í þessu sambandi getum við tekið sem dæmi dansinn Hamingja yfir áunnu frelsi, þar sem þrír kátir unglingar dansa og syngja og slá tíbetskan gítar. Textinn hljóðar m.a. á þessa leið: "Áður sungum við um sorg og tár, en nú erum við, sem áður voru ánauðugir, orðnir herrar okkar eigin örlaga og enginn er hamingjusamari en við." Eða sönginn Ó fagra Tíbet, okkar elskaða fósturjörð, en texti hans hljóðar m.a.: "Rauð sólin rís handan við hæðirnar. Við, hinir ánauðugu leiguliðar höfum öðlast frelsi og gleðjumst. Útlit borgar okkar breytist daglega við hina hröðu sósíalísku uppbyggingu."

Það var vel til fundið hjá sjónvarpinu - hvort sem það hefur nú verið tilviljun eða ekki - að sýna, sama dag og dans- og sönghópur þessi kom til landsins, mynd frá Tíbet, gerða af breskri fjölskyldu. Mynd þessi var einkum athyglisverð fyrir þær sakir, að hún afhjúpaði ýmsar lygar um ástandið í Tíbet, bæði fyrir og eftir frelsun alþýðunnar, og um svokallaða "innrás" kommúnista þar og "innlimun" Tíbet í kínverska alþýðulýðveldið. Tíbet hefur verið óaðskiljanlegur hluti Kína í aldaraðir. Fyrst eftir frelsunina 1949 hróflaði Rauði herinn ekki við eignum yfirstéttarinnar í Tíbet og lét Dalai Lhama og klerkaaðal hans óáreittan með sitt bænakukl. En þegar her yfirstéttarinnar hóf skotárásir á Rauða herinn sameinaðist her kommúnista og tíbetsk alþýða til uppreisnar gegn syndum spilltu yfirstéttinni og Dalai Lhama og hirð hans varð að flýja land. Eftir þessa frelsun ánauðugrar bændaalþýðu var hægt að hefja uppbygginguu sósíalismans í Tíbet.

Framhald af baksíðu
KJARABARÁTTA .....

geta þess hér að mörg hagsmunafélög stúdenta innan HÍ hafa lýst yfir fullum og óskoruðum stuðningi við baráttu stundakennara við HÍ og telja að þar fari saman hagsmunir stúdenta og kennara. Meðal þessara félaga eru Hagsmunafélag Líffræðinema, Fjallið (félag jarð- og landafræðinema, Félag Matvælafræðinema, Félag Verkfræðinema og Samfélagið (félag nemenda í félagsfræði við HÍ).

Viðtal tók B. L.

# *Lærdómar af 5. bindi Maó formanns*

# Vörumst kreddur, vísum einsýni á bug

Í ræðu sem Maó Tse-tung hélt 12. mars 1957 á landsráðstefnu flokksins um áróðursstörf sagði hann m.a. þetta:

"Bæði kreddufesta og endurskoðunarstefna eru andstæðar marxismanum. Marxisminn verður að þróast; hann verður að þróast samhliða starfinu og getur ekki unað kyrrstöðu. Hann yrði líflaus ef hann yrði stöðnun og einsýni að bráð. Grundvallarlögmál marxismans má samt sem áður ekki brjóta, annars munu mistök verða gerð. Það er kreddufesta að líta á marxismann frá sjónarhóli frumspekinnar og sem stirðnaðan. Hitt er endurskoðunarstefna að hafna grundvallarreglum marxismans og afneita algildum sannindum hans. Endurskoðunar stefna er ein gerð borgaralegrar hugmyndafræði. Endurskoðunarsinnar hafna muninum milli sósíalisma og kapítalisma, milli alræðis öreiganna og alræðis borgarastéttarinnar. Þeir eru raunverulega formælendur kapítalískrar stefnu en ekki sósíalískrar." (Vol. 5. 435).

Þessi orð Maós eru einkar lærdómsrík fyrir hina ungu og reynslulitlu hreyfingu kommúnista á Íslandi í dag. Einungis þeir sem eru yfirfullir hroka og sjálfumgleði hafna þessari niðurstöðu, telja sér aldrei hætt við kreddufestu en álíta alla aðra endurskoðunarsinna. Kommúníska hreyfingin á Íslandi hefur sökum skorts á fræðilegri og starfrænni reynslu gerst sek um einsýni og oft skoðað marxismann sem stirðnaðan. Hún hefur oft á tíðum þröngvað algildum kennisetningum marxismans upp á íslenskar aðstæður án þess að taka tillit til þjóðlegra séraðstæðna og þeirrar sérstöku þróunar sem einkennir íslenskt þjóðfélag. Hún hefur með öðrum orðum hafnað í neti kreddufestunnar í ýmsum málefnum.

Ein helstu rökin gegn því að kreddufestan ríki í íslenskri kommúnískri hreyfingu eru þau, að kreddufesta sé eitt og hið sama og endurskoðunarstefna. Þetta er rangt. Það er rétt að snúast gegn kreddufestunni en að gera engan greinarmun á henni og borgaralegri hugmyndafræði er rangt. Bæði máir það út mörk inn milli borgaralegrar hugmyndafræði og smáborgaralegrar afbökunar á hugmyndafræði verkalýðsstéttarinnar og eins gerir það kommúnista andvaralausa gegn smáborgaralegri afbökun kreddufestunnar. Slík fullyrðing er einmitt í anda kreddufestunnar, í anda þeirrar stefnu að sjá aðeins ystu öfgar hlutanna en ekki hin fjölmörgu millistig milli þeirra, að sjá aðeins svart og hvítt en ekki hina fjölmörgu gráu [illegible] sem teygja sig frá annarri andstæðunni til hinnar. Slík skoðun er bæði ódíalektísk og skaðleg. Kreddusinnar afbaka marxismann og gera úr honum stirt og einsýnt trúarskoðanakerfi. Þannig eru skoðanir þeirra skaðlegar og leiða ekki til árangurs. En þeir snúast ekki opinskátt gegn grundvallarreglum marxismans né afneita byltingunni eða sósíalismanum. Með öðrum orðum, þeir eru ekki endurskoðunarsinnar, heldur smáborgaralegrir kreddusinnar. Þegar EIKm-l gagnrýnir Kommúnistaflokkinn sem endurskoðunarsinnaðan flokk sýnir það aðeins, að þau skilja ekki eðli endurskoðunarstefnunnar og gera sig sjálf sek um alvarlega kreddufestu. En kreddufestu má breyta með alvarlegri gagnrýni og umburðarlyndi. Í grein sem Maó Tse-tung skrifaði 15. mars 1957, "Ástandið er að breytast", segir hann: "Þegar kreddufesta snýst upp í andstæðu sína verður hún annað hvort marxismi eða endurskoðunarstefna. Reynsla flokks vors sýnir að mjög oft hefur kreddufesta snúist upp í marxisma en mjög sjaldan upp í endurskoðunarstefnu, því að kreddufesta er angi af skoðanakerfi öreigastéttarinnar samofin smáborgaralegum öfgum." (Vol. 5. 440). Þegar þeirri skoðun er fylgt að kreddufesta sé endurskoðunarstefna leiðir hún augljóslega til mistaka. Því kreddufesta er ekki aðeins andstæð marxismanum, heldur og endurskoðunarstefnunni og það miklu fremur þar sem hún er angi af skoðanakerfi öreigastéttarinnar. Meginorsökin fyrir klofningi marxískrar hreyfingar á Íslandi nú á tímum liggur einmitt í þessari röngu skoðun. Hana verður að uppræta. En það er ekki aðeins nauðsynlegt að geta greint kreddufestu réttilega, það er líka nauðsynlegt að þekkja "trotskíismann" sem Stalín skilgreindi sem anga endurskoðunarstefnunnar



Í hverju er munur kreddufestu og trotskíisma fólginn? Hann felst einkum í því, að raunverulegir trotskíistar afneita alræði öreiganna og hinum leníníska flokki. Þeir hafna algildum sannindum lenínismans og reynslu öreigabyltinganna á 20. öldinni. Kreddusinnar víkja af réttri braut, skapa sér eigin stefnuskrá og reka opinskátt og hávært áróður fyrir henni. Trotskíistar snúast gegn flokknum og byltingunni, skapa sér líka eigin stefnuskrá en þeir reka ekki opinskáan áróður fyrir henni. Þeir fara aftan að fólki beita lygum og óhróðri í sundrungarstarfssemi sinni. Markmið þeirra er ekki að sannfæra flokkin um réttmæti öfgakenndrar stefnu sinnar, eins og markmið kreddusinna er, heldur að sundra flokknum og brjóta hann niður í þágu borgarastéttarinnar. Forvígismenn 7-menninganna sem klufu Kommúnistaflokkinn í janúar 1977 voru ekki kreddusinnar. Þeir eru dæmigerðir trotskíistar og gagnbyltingarsinnar. Þeim hefur með aðferð rógs og undirróðurs tekist að draga með sér fjölda félaga sem voru reikulir í afstöðu sinni. Þeir kynda undir hatursbáli gagnvart Kommúnistaflokknum og hefur tekist að blekkja félaga EIKm-l og smygla sér inn í raðir þeirra sem einlægir andstæðingar endurskoðunarstefnunnar. Þessir menn beina spjótum sínum aldrei að endurskoðunarstefnunni, heldur að einingu marxísku-lenínísku hreyfingarinnar. Þeir bera höfuðábyrgð á sundrungu hreyfingarinnar og sameining mun aldrei takast fyrr en þeir hafa verið fyllilega afhjúpaðir og reknir burt. Yfirgnæfandi meirihluti þeirra sem gengu úr Kommúnistaflokknum á síðustu tveimur árum eru fórnarlömb kreddufestunnar og þess undirróðurs sem beitt var

Framhald hér að ofan.

Framhald af greininni hér að neðan.
VÖRUMST KREDDUR .....

gegn flokknum. Tveir forvígismenn 7-menninganna eru trotskíistar og undirróðursmenn. Þeir hafa aldrei verið marxistar og þekkingarleysi sitt á marxismanum hafa þeir falið með því að styðja fræðilegar röksemdir annarra, ekki í þeim tilgangi að bæta stefnu og samheldni hreyfingarinnar, heldur í þeim tilgangi að sundra henni og breyta stefnu hennar í endurskoðunarstefnu. Þessa tvo menn verður að draga til ábyrgðar fyrir verk sín. Það er nauðsynleg forsenda sameiningar marxísku-lenínísku hreyfingarinnar.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
41. tbl. Þriðjudagurinn 31. okt, 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Kjarabarátta stundakennara við H.Í.

Eins og menn vita stendur nú fyrir dyrum verkfall stundakennara við HÍ vikuna 5.-11. nóvember næstkomandi. Samtök stundakennara við HÍ sem voru stofnuð í mars síðastliðnum standa fyrir verkfallinu, en það verður háð ef ríkisstjórnin gengur ekki að kröfum stundakennara um lágmarkskjarabætur. Mál þetta hefur lítið verið rætt í fjölmiðlum, því átti Stéttabaráttan eftirfarandi viðtal við Guðmund Einarsson, stundakennara við HÍ (en viðtalið var tekið hinn 26/10 sl.):

Sp.: Hvernig eru kjör og aðstaða stundakennara við HÍ í dag?

Sv.: Í dag fá stundakennarar 4 tíma greidda fyrir hvern fyrirlestur, þ.e. 3 tíma fyrir undirbúning og 1 fyrir flutning fyrirlestursins. Þetta er hins vegar meðalmat þar sem maður er a.m.k. einn dag að undirbúa fyrirlestur sem maður er að fara að flytja í fyrsta sinn. Sama er uppi á teningnum með verklegar æfingar; við fáum 3 tíma greidda fyrir hverja stund þar ef æfingin er flutt í fyrsta sinn og ef hún er endurtekin fáum við 2 tíma fyrir stundina. Það hljóta allir að sjá að það tekur lengri tíma en þetta að undirbúa verklegar æfingar. Þessar greiðslur eru samkvæmt 109. launaflokki og fyrir utan þetta fáum við álag fyrir endur menntun svo og svokallað bókakaupa gjald. Hinsvegar fáum við engin frí borguð, heldur aðeins nákvæmlega það sem við kennum svo og ef við erum með próf en þá er greiðsla metin út frá fjölda og lengd prófa. Um aðstöðuna er það að segja að hún er yfirleitt engin og rannsóknaskylda er engin sem aftur kemur niður á stúdentum. Þannig lánum við Háskólanum aðstöðu heima hjá okkur til að semja fyrirlestra sem engin greiðsla kemur fyrir en þó að við vildum vera með rannsóknir til að bæta verklegar æfingar höfum við enga aðstöðu til þess.

Sp.: Hvaða kröfur hafið þið sett fram?

Sv.: Það hefur verið slegið mikið af upphaflegu kröfunum þannig að það sem eftir stendur er í fyrsta lagi og númer eitt misserisráðning sem mundi þýða að við fengjum jóla- og páskafrí borguð. Í öðru lagi viljum við að okkur sé greidd yfirvinna ef fjöldi vinnustunda fer yfir 40 stundir á viku, svo og ef við erum skikkaðir til að kenna utan dagvinnutíma, t.d. milli kl. 17-19 en það ber oft við. Í þriðja lagi má svo nefna kröfuna um 10% stjórnunarálag.

Fyrir liggur tilboð frá fjármálaráðuneytinu um 5% álag nema hvað þeir sem hafa stundakennslu sem aðalvinnu (eða a.m.k. meir en sem hálfa vinnu, þ.e. 20 stundir á viku) fái 10%. Við teljum það aftur á móti réttlætismál að allir fái 10% álag enda þótt ólíklegt sé að það nái fram að ganga. Loks mætti nefna að við viljum fá skýrar reglur um greiðslu þá sem nú tíðkast fyrir sérstaklega unnin undirbúningsstörf, t.d. ef stundakennari er að byrja að kenna námsgrein sem ekki hefur verið kennd áður.

Sp.: Hver hafa verið viðbrögð ríkisvaldsins?

Sv.: Í fyrstu vildu þeir ekkert við okkur tala þar sem við værum formlega séð ekki samningsaðilar en 2. júní kom tilboðið um 5-10% stjórnunarálagið sem ég minntist á áðan og er það eina atriðið sem hefur verið komið til móts við okkur í auk þess sem tilboð þetta er óstaðfest.



Frá mótmælafundi BSRB í fyrra.

Sp.: Hve margir stundakennarar eru nú við Háskólann og hvernig kemur það út fyrir hina ýmsu aðila, svo sem stúdenta?

Sv.: Um 50% allrar kennslu við Háskólann er stundakennsla en hins vegar er fjöldi stundakennara á reiki frá misseri til misseris eða u.þ.b. 250-300. Þetta er mjög óeðlilegt hlutfall miðað við háskóla erlendis og er það hátt að það þýðir að stúdentar fá ekki fullnægjandi kennslu þar sem stundakennarar hafa ekki rannsóknaskyldu né aðstöðu til að sinna rannsóknum sem aftur fastir kennarar hafa Auk þess eru stundakennarar oft bundnir á öðrum vinnustöðum þannig að þeir koma hlaupandi, halda sinn fyrirlestur og eru svo þotnir en af þessu leiðir að stúdentar eiga oft mjög erfitt með að komast í samband við þá. Einnig má nefna skort á samræmingu sem af þessu leiðir, t.d. í sambandi við að stundum er skipt um kennara í einstökum námsgreinum árlega og oft er erfitt að samræma skyldar greinar af svipuðum sökum.

Sp.: Hverjar eru líkurnar á að af verkfalli verði og að kröfurnar náist fram?

Sv.: Í morgun var haldinn fundur með ráðuneytum þar sem fulltrúar þeirra sögðust skyldu koma með tilboð um miðja næstu viku. Síðan er það að sjálfsögðu álitamál hvort við teljum tilboðið fullnægjandi. Annars hefur kröfum okkar verið mjög þunglega tekið þar sem ráðuneytið kemst af með að mæta vaxandi þörf fyrir kennslu við Háskólann með því að ráða stundakennara sem hvorki þarf að greiða í leyfum né kosta á nokkurn annan hátt til rannsókna. Þetta teljum við mjög bagalegt sérstaklega þar sem stúdentar eiga rétt á fullnægjandi kennslu og með kröfum okkar gæti málið e.t.v. endað þannig að ráðuneytið gæfist upp á þessum leik og færi að ráða fasta kennara í stað stundakennara sem er að öllu leyti heppilegra fyrir alla aðila.

Sp.: Er svo ekki eithvað sem þú vilt segja að lokum?

Sv.: Ég vil aðeins segja það að hvernig sem þessi barátta núna endar vona ég að sá dagur eigi eftir að koma að stjórnvöld skilji að fjölgun nemenda verður ekki mætt á fullnægjandi hátt með ráðningu stundakennara þar sem þá er vanrækt annað höfuðverkefni Háskólans sem er rannsóknavinna.

Stéttabaráttan vonar að lesendur séu nú einhverju nær um þetta mál eftir að hafa lesið þetta viðtal. Að lokum má

Framhald á síðu 3.

# Er fullveldisdagurinn úreltur

1. desember minnist þjóðin sjálfstæðisbaráttunnar. Þessi setning gæti verið upphaf lofræðu um hið íslenska þjóðfélag eða eitthvað í þeim dúr. Setningin er nefnilega helber ósannindi, þjóðin heldur engin hátíðahöld eða gerir frekari áætlanir um sjálfstæðisbaráttu Menn eru alveg hættir að taka sér frí í vinnunni eða gera sér dagamun til að minnast hins dýrkeypta frelsis, í mesta lagi er krökkum gefið frí í skólanum án þess að krakkarnir viti af hverju? Stúdentar við Háskóla Íslands hafa minnst þessa dags með dagskrá í Háskólabíói sem hefur verið útvarpað. Kosið hefur verið um hvaða efni á að flytja á þessum samkundum. Síðast liðin ár hafa verið tekin fyrir efni sem ekki varða sjálfstæðisbaráttuna beint heldur ýmis mál sem varða þjóðfélagið sem sjálfstæðisbaráttan skóp af sér. Svo er einnig nú.

Vaka félag lýðræðissinnaðra stúdenta bauð upp á efnið "1984 Hvað verður ekki bannað en Verðandi félag rótttækra stúdenta bauð upp á efnið "Háskóli í auðvaldsþjóðfélagi." Verðandi vann þessar kosningar.

Verðandi benti á í sínum áróðri að þeir vildu að stúdentar færu loks að líta sér nær. En það má benda stúdentum á að háskóli er þeim ekkert einkamál. Verðandi ætlar að reyna að svara spurningum svo sem: Ráða lögmál markaðssamfélagsins ferðinni í háskólamenntun? Er frjálst nám óskhyggja ein? Verður stúdentinn óhjákvæmilega vel smurt tannhjól í gangverki auðvaldsskipulagsins? Hvað er menntun? Hver er æskilegt skipulag háskólans o.s. fr.v. Spurningar sem varða alla þjóðina og stúdenta pólitík næstu ára. Til liðs við sig ætlar Verðandi að fá deildir háskólans þannig að þær taki fyrir nám í sinni deild og megi þetta verða upphaf að fagrýni innan deildanna.

Í þessum kosningum hlaut Verðandi 371 atkvæði (57,3 %) Vaka 276 (42,7%) en 26 seðlar voru auðir. Kosningaþátttaka var 25%. Það sem vekur athygli í þessum tölum er hvað kosningaþátttaka er lítil. Til að skýra út þessa litlu þátttöku verðum við að athuga hvort um langtíma þróun er að ræða eða hvort hér sé um að ræða afmarkað fyrirbrigði. Kosningaþátttaka til 1. des. kosninga hefur verið frekar dræm undanfarin ár. Þar er um að ræða að kosningastaður hefur ver Sigtún sem er bæði leiðinlegt húsnæði og langt frá háskólanum og að áhugaleysi stúdenta á 1. des. speglar áhugaleysi fólksins fyrir fullveldisdeginum. Sé um að ræða einstakt fyrirbæri þá mætti benda á að efnin væru illa kynnt t. d. komu áróðursspjöld ekki upp fyrr en fjórum dögum fyrir kosningar. Stúdentar voru vissir um sigur Verðandi þannig að um enga keppni var að ræða í kosningunum, bæði efnin léleg og svo mætti lengi telja. En sé léleg kosningaþátttaka einhver þróun þannig að þátttakan verði enn lélegri næst, þá er um mun alvarlegra mál að ræða. Dettur manni þá fyrst í hug að aukið námsálag gæti verið orsökin. Annars ætlar Verðandi að reyna að svara slíkum spurningum 1. desember 1978.

